# Skóli þagnarinnar

## Gunnar Dal

**Desember 2010**

Ég fór sumarið 1952 upp í Dar- jeeling í Himalajafjöllunum og var þar tæpa tvo mánuði. Ég var þá tuttugu og níu ára gamall. Þetta var liður í að undirbúa mig undir að skrifa, ekki einungis sögu heimsspekinnar heldur skrifa hana með nýjum hætti á nýjum forsendum.

Ég gekk út í fagran morgun einhvern þessara daga og hitti þar á göngu minni tvo shika og tókum við tal saman. Þeir spurðu mig um ferðir mínar og ég var opinskár eins og oft er um unga og bjartsýna  menn. Ég sagði þeim frá áformum mínum um að afla mér gagna um indverska heimspeki og skrifa í tímans rás, sögu heimspekinnar, fyrstu sögu heimspekinnar sem heimspekisögu veraldarinnar, en ekki alfarið sögu Evrópu. Ég yrði að byrja mína sögu um 1600 f.k. um allan hinn gamla heim, ekki síst Indland, Kína og Egyptaland.

„Merkilegt,“ sögðu shikarnir. „Ef þú ert að leita að indverskri heimspeki þá getur þú ekki verið á betri stað. Það kom hingað maður í

gærkveldi. Hann gengur undir nafninu „Hið andlega yfirhöfuð Norður – Indlands." Það ber vel í veiði. Ef þú vilt skulum við sýna þér hvar hann er." Og auðvitað var ég tilbúinn að hitta þennan mann. Það er skemmst frá því að segja, að við fórum þrír saman inn í hús, rúmgott hús, og þar sátu nokkrir tugir manna á gólfinu eins og Indverja er siður. Og þessi maður sem bauð af sér góðan þokka, hvorki gamall né ungur, hávaxinn og fremur grannur, sat þarna fyrir framan fólkið. Fólkið sat allt þegjandi. Strákarnir ruddust inn og ég á eftir. Annar shíkinn sagði: „Hér er kominn heimspekingur frá Vesturlöndum og vill fá að tala við þig." Og ég stóð þarna og sárskammaðist mín, því þó ég væri enginn spekingur, þá skildi ég að þetta var í ósamræmi við alla siði hópsins. Þetta var þagnarskóli og þarna var ekki venjan að tala. Þaðan af síður af slíku yfirlæti. Ég minnist þess nú ekki, að hafa sagst vera heimspekingur. Ég hef aldrei kallað mig heimspeking. En einhvern veginn fannst þeim að þetta ætti að vera orðið sem gæfi mér rétt á að hitta þennan mann. Og þarna gerðist í raun og veru ekki neitt nema það að þessi maður benti mér að koma til sín.

Ég gekk til hans og hann rétti mér ávöxt sem mér skilst að hafi átt að tákna vináttu.

Þessi skóli var þannig að nemendurnir sátu og báru fram spurningar. En þetta var sérstakur skóli, sérstakrar tegundar. Spurningar voru aldrei settar í orð, aldrei sagðar upphátt. Nemandinn formaði spurninguna og fræðarinn las spurninguna án þess að heyra hana. Og hann kom svarinu til nemandans án þess að segja neitt. Þetta læra menn ekki auðveldlega. Og ekki á skömmum tíma. Þar sem ég var græningi í þessum fræðum, þá var ekki til neins að ætlast til að ég vissi þetta. Enda ávarpaði fræðarinn mig á ensku. Hann bauð mig velkominn og sagði einfaldlega: „Ef það er eitthvað sem þig langar til að vita þá er þér heimilt að spyrja um það.“ En nú kom Húnvetningurinn upp í mér: Það er ekkert annað, bara spyrja, og þá færðu að vita það! Ég þóttist hafa velt fyrir mér talsvert mörgum spurningum sem ég taldi að enginn maður hefði neitt svar við. Ég rifjaði sex eða sjö slíkar spurningar upp á svipstundu og hugsaði með mér. Maður sem svona talar, hann á ekkert betra skilið en að fá nokkrar spurningar sem enginn getur svarað. Ég bar upp allar sjö

spurningarnar. Eina eftir aðra. Þegar ég hafði borið fram fyrstu spurninguna, þá gerðist það mér til talsverðrar furðu að nýju óvæntu svari laust skyndilega niður í huga mér. Allt í einu skildi ég þessa spurningu og svarið var svo ljóslifandi skýrt og einfalt að ég sárskammaðist mín fyrir að hafa verið að spyrja svo einfeldningslegrar spurningar. Eftir nokkra þögn svaraði hann spurningunni á ensku, að sjálfsögðu því ekki skildi ég neitt í máli heimamanna. Enda má segja að enska hafi verið hið opinbera mál í Dar-jeeling á þessum tíma. Ég verð að segja að þetta munnlega svar fannst mér gott en ekkert sérstakt. Eftir að ég hafði fengið þennan nýja skilning allt í einu á meðan að ég þagði, þá fannst mér að ég gæti sjálfur svarað þessu alveg eins vel ef ekki betur. En þetta var nú einu sinni hans aðferð. Að svara spurningu fyrst og fremst hugrænt. Og þarna fékk ég áþreifanlega, persónulega sönnun fyrir því, að þetta gerist. Þetta er hægt. Sama gerðist við næstu fimm spurningar. Eftir að ég hafði spurt þagði hann um stund og í þögninni varð mér ljóst hvernig eðlislægt raunsatt svar var. Þetta var skýrt og ljóslifandi og aftur skammaðist ég

mín fyrir að hafa borið fram svona einfeldningslega spurningu. En við þá sjöundu gerðist ekki neitt. Þessi sjöunda var svona: „Ef það raunverulega er satt, sem flestir Indverjar halda, að menn endurfæðist til jarðarinnar, hvernig stendur þá á því, að það er hvergi skráð í bókum nein lýsing á því hvað raunverulega gerist þegar maður er að deyja í astralheimum og þar til hann fæðist á jörðinni?“ eftir stutta þögn sem gaf mér ekki neitt svar sagði hann: „Ég ætla ekki að svara þessari spurningu núna, en ég skal sýna þér í draumi, hvernig þú fórst síðast til jarðarinnar.“

Næsta morgun var mér sagt, þegar ég hitti shíkana, að þessi maður væri farinn frá Darjeeling. Þeir sögðu mér að hann kæmi þangað yfirleitt ekki nema á margra ára fresti, og hefði stutta viðdvöl. Ég veit ekki hver þessi maður er, ekki með vissu að minnsta kosti. Og ég get aðeins sagt frá minni eigin reynslu. Þetta gerðist svona en meira veit ég ekki. Þessi fræðari minn sveik mig ekki. Draumurinn var svo skýr að enn þann dag í dag hef ég ekki gleymt einu einasta smáatriði úr honum.

Spurningin sem ég hafði lagt fram var einhvernveginn á þessa leið:

„Ég hef oft lesið um það að maðurinn endurfæðist til jarðarinnar en ég veit ekki til að í austurlenskum bókum fremur en í öðrum bókum sé neins staðar skýrt frá því hvernig þetta gerist. Aðeins talað um meðvitundarleysi frá því maðurinn hverfur frá kamaloka eða astralheimum og endurfæðist á jörðinni. Þess vegna langar mig til að spyrja: Hvað er það sem raunverulega gerist?“ Þannig var spurning mín og þetta var eina spurningin sem maðurinn, sem vinir mínir shikarnir, kölluðu hið andlega yfirhöfuð Norður – Indlands, svaraði ekki þegar í stað. En hann fullyrti að ég skyldi fá svar við þessari spurningu minni næstu nótt. Þannig lauk þessu samtali mínu við þennan undarlega mann. Hann kvaddi mig og gaf mér mangóávöxt og blessun sína að skilnaði. Ég yfirgaf þennan skóla þagnarinnar og hélt heimleiðis. Ég fór að sofa um miðnættið eins og ég var vanur og var satt að segja vantrúaður á þá vitrun sem mér hafði verið heitin. En ég hafði ekki fyrr fest blund en ég varð fyrir reynslu sem ekki líktist draumi. Það sem gerði þessa reynslu ólíka venjulegum

draumi var það að ég skipti þrisvar sinnum um vitund og var með vitundir sem ég hef ekki aðra reynslu af. Í annan stað var ein þessara þriggja vitunda miklu skýrari en mín venjulega vitund eða þetta sem sumir kalla dagvitund.

En hvað gerðist?

Mér þótti ég vera staddur í geðheimum. Það getur vel verið að einhverjir dulfróðir menn hafi áður nefnt þennan stað biðstofu lífsins. Ég veit það ekki. Mér fannst ég liggja á bekk líkt og ég væri á sjúkrahúsi þótt ekki væri þarna um neina sýnilega byggingu að ræða. Aðrir menn lágu í kring um mig á sams konar bekkjum. Mér leið illa. Loftið var svarblátt og ég var haldinn þjáningu og kvíða. Ég var þarna í geðlíkama eða betalíkama og vitund mín var geðheimavitund. Ég vissi að ég var að deyja. Ég vissi að ég var að skilja við en gerði mér ekki ljósa grein fyrir ástandi mínu né fyrir því hvað við tæki.

Loks fannst mér ég missa vald yfir líkamanum og líða upp í loftið. Ónotatilfinningin og kvíðinn hurfu og ég missti meðvitund um stund. Á næsta stigi þessarar undarlegu reynslu var mín fyrri vitund horfin. Líkami minn virtist

bjartari, hreinni og léttari og hin nýja vitund mín var kristalskír og máttug. Ég var staddur í röstinni á landamærum geðheima og efnisheims. Hún er ekki landamæri í rúmi heldur landamæri í ástandi. Með þessari nýju og skýru vitund skynjaði ég óravíddir geimsins en það var eins og allur þessi mikli stjarnheimur væri fyrir neðan mig. Ég vissi ekki hvert ég væri að fara. Hins vegar sá ég eða öllu heldur fann þá plánetu eða jörð sem ég átti að hverfa til. Í þessu ástandi fannst mér vitund mín fær um að leysa úr hverri spurningu sem hún beindist að. Ég man að ég hugsaði: „Hvað þekkja íbúar minnar fyrirheitnu jarðar mikinn hluta þessa stjarnheims?“ Og um leið og ég formaði spurninguna skynjaði ég hinn þekkta alheim jarðarbúa. Örlítinn hring í stjarnhafinu. Þessi hringur hefur margfaldast síðan og er allur annar nú en hann var þá. Til vinstri horfði ég á óreglulega lagað ferhyrnt rjóður í þennan að því er virtist óendanlega stjarnheim. Það var skammt frá hinum ímyndaða hring sem takmarkaði þekkingu manna á geimnum. En þessi eyða var margfalt stærri en hann. Ég man að ég skemmti mér við þá tilhugsun að ef mannleg þekking gæti

einhvern tíma náð þessari eyðu, myndi koma fram vísindaleg kenning um að takmörk alheimsins væru fundin. Því til að komast yfir eyðuna þyrfti hinn þekkti alheimur mannsins að hundraðfaldast. Samt var þessi eyða ekki annað en lítil eyja á að því er virtist endalausu hafi.

Þessum hugleiðingum mínum lauk á því að mér fannst eins og líkami minn leystist upp í straum og bærist í átt til minnar nýju jarðar. Samt skynjaði ég ekki eiginlega hreyfingu. Það var eins og líkaminn hyrfi en vitundin yrði ein eftir. Þessu ástandi lauk þegar ég komst í námunda við jörðina og þá varð ég mér aftur meðvitandi um að ég væri í líkama. Jörðin hafði geysilega sterk áhrif á vitund mína ef svo mætti segja. Ég sá greinilega höf og heimsálfur þar sem eyður voru í skýjahafið. Það sem verkaði sterkast á mig var niðurinn sem frá henni barst en þó sérstaklega þessi gífurlegi kraftur sem út frá henni streymdi.

Ég nálgaðist jörðina án þess að ráða för minni en samt gerði ég tilraun til þess. Ég man það síðast í þessu ástandi að reyndi allt sem ég gat til þess að lenda ekki svona norðarlega. Mér

stóð satt að segja nokkur beygur af að fæðast á þessum slóðum. En þetta var allt árangurslaust. Ég dróst að jörðinni með ómótstæðilegu afli og missti meðvitund öðru sinni.

Þriðja stigið á þessu kynlega ferðalagi kom mér enn meira á óvart en jafnvel hin tvö. Þegar ég vissi af mér næst hafði ég ekki eina vitund heldur tvær vitundir sem þó voru á vissan hátt ein. Fyrri vitundin var vitund fósturs í móðurkviði, vitund án hugsunar og aðgreiningarkenndar en samt óljós vitund eins og þegar haft er veður af einhverju í gegn um djúpan og væran svefn. Síðari vitundin var fyrir utan. Hún var mjög svipuð þeirri vitund sem ég hef nú. Ég sagði að þessi vitund hefði í vissum skilningi verið ein vegna þess að það var náið samband á milli þeirra. Sú vitund sem stóð fyrir utan skynjaði líðan og ástand fósturvitundarinnar og ég þóttist vita að hún myndi smám saman renna saman við hana eftir því sem líffæri barnsins þroskuðust og þessi sameining tæki jafnvel mestan hluta af uppvaxtarskeiði mannsins.

Þessi reynsla eða þetta svar endaði á því að ég fæddist inn í þennan heim. Ég grét eins og önnur börn og hrökk síðan upp af þessu undarlega ástandi sem líktist á engan hátt venjulegum draumi. Klukkan var nákvæmlega tíu mínútur yfir tólf.

Ég efaðist ekki um að þessi óþekkti maður hefði staðið við orð sitt. Svari hans fylgdi sama sannfæringin og öðrum svörum hans. Þegar ég hafði fengið þetta svar þóttist ég þess fullviss að þannig væri þetta og á engan annan hátt. Ég er þakklátur fyrir þessa reynslu. En það er ekki hægt að láta frásögninni fylgja þau áhrif sem verða til þess að sannfæra þann sem fyrir reynslunni verður. Og það skiptir sköpum. Þessa hluti er mjög erfitt að vita vegna þess að þetta er sú reynsla sem er aðeins upplifuð í vitund sem er dulvituð bæði á jörðinni og í geðheimum og er þess vegna ráðgáta í báðum þessum heimum, án réttrar snertingar.

Ég er sannfærður um að þessi maður hafði með einhverjum hætti látið mig muna og rifja upp mína síðustu för til jarðarinnar. Rifja upp reynslu sem geymst hefur dulvituð einhvers staðar í afkimum vitundarinnar. Það er auðvelt

að segja að þetta sé draumur eða fóstur ímyndunaraflsins, skáldadraumur en ekki raunveruleg reynsla. Hvað mig snertir þá lít ég svo á að þetta sé bein reynsla.